þad sie giefed eñ ei kaedt/ ef þad kiemur med Lÿfe i Lios z verdur skÿrdt. Slÿkt Fe sem Moder leggur til Barna siña/ og andast þau Barnlaus/ þa erfer hun þad allt epter þau. Enn ef Moder er aundud / þa eiga Børn hennar skil-giefenn ad taka þad Fe fyrr enn Fad-er. Nu er Dotter leigenn i Fødurgar-de edur Brodurs / þa a hun hverke ad taka Arf epter Fodur siñ nie Mod-ur/ utann hafe slÿka Myskun sem Fad-er vill giort hafa / edur Broder ef ei er Fader til. Nu er ei Sonur til Arfs / eñ til sie Sonarson so til komeñ sem fyrr seiger / og su Dotter sem ei er leigeñ/ þa take su er i Fødurgarde edur Brodurs var leigeñ / halfu minna enn hvert hiña. Eñ ef einge þeirra er til sem ádur eru talder/ þa take hun so allañ Arf / sem Mál heñar være O-spiallad. Hvervetna þar sem Felag er Hiona i millum/ þa skal Gipting Dot-ra z Heimañfylgia greidast af beggia þeirra Fe / epter þvi sem Felag þeirra
var

var giørt. Eñ ef ei er Felag Hiona i millum/ þa skal epter Fiarmagne hvert þeirra leggia til Barna sinna. Eige a Fader edur Moder ad Kvonga Son siñ edur gipta Dottur syna med meira Fe / eñ slykt kome þa a hvers Hluta þeirra sem epter eru/ eþ þa være Erfdeñe skipt/utañ þeir lofe sem næst er standa Arfe. Eñ eþ meira er heimañ gieþed/ þa jaþnest þad þa er Arfur tæmest (2). Eñ ef Arfur vinst ei til/ legge aptur til Jaþnadar hver sem meira haþde heimañ eñ Log votta. N. B. H. K. So er stadþest/ ad þar sem Madur þester sier Mey edur Konu ad Guds Logum og beggia þeirra Samþycke/ þa eru þau Born øll sem hñ á med þeirre Konu løglega til Arfs komeñ / hvert sem þau eru gieteñ fyre Festing edur epter / utann þau sem i Hordome haþa gieteñ vered. N. B. H. K. Eñ su er ein løgleg Festing epter þvi sem forn Log votta/ eñ eingeñ aunnur/ er Madur tekur i Hond Mey

edur Konu ad nærverendum skilrÿkum Vitnum/og þester hañ hana med þeim Ordum sem þar til heyra. Eñ hvorier sem añañ Veg binda siñ Riuskap / þa skulu þeirra Børn eige løgleg til Arfs vera.

# Auñur Erfd.

SV er auñur Erfd/er tekur Ættleid-ingur sa er med Løgum er til Arfs leiddur/ og Sonar Son skilgieteñ/ þo ad Fader hñs sie ei skilgieteñ / og Sonar Dotter skilgieteñ/ef Fader heñar er skilgieteñ/ og Dottur Son skilgieteñ ef Moder hñs er skilgieteñ / siñ Fiordung hvert þeirra / bæde i Lande og lausum Eyre. Eñ þo ad Sonar Dotter sie ein/ eñ þeir allmarger / þa tekur hun þo fullañ Hlut vidur þa. Nu þo ad eirn sie þeirra til/ eñ þau allmørg / þa tekur hñ þo fullañ Hlut vid þau/ þo ad fleire sie i Ættkvÿsleñe añare. Eñ ef eitt er þessara til/ þa tekur þad þann Arf allañ. K. B. N. K. So og er nu

nu ſkadfeſt / ad Ættleidings Son ſkilgieteñ tekur næſt epter Ættleiding og þa ſiñ honū ſtanda jafnframi til/ þañ Arf ſem Ættleidingur var til leiddur ad Logum/ ef hñ er andadur. N. B. N. K. So er og ſkipad / þo ad Sonarſyner ſieu tveir edur fleire/ þeir ſem Fader þeirra var ſkilgieteñ / þa take þeir ei meire Arf eñ Fader þeirra ſtod til / ef þeir eigu vid þa ad ſkipta ſem jafnfram þeim ſtanda til. Nu ef þeſſer eru aungver til ſem fyrr voru talder/ þa tekur Dotturdotter ſkilgieteñ ef Moder heñar er ſkilgieteñ.

# Þridia Erfd.

SV er hin Þridia Erfd er Brodur verdur Broḋurs Arfe og eru þeir ſamfedra z ſkilgietn°. Eñ ef Brodurs miſſer / þa tekur Syſter Samfedra ſkilgieteñ. Nu er Syſter eige til / þa tekur Moder ſkilfeingeñ Arf epter Barn ſitt. Eñ ef hun er eige til/ þa tekur Frillu Sonar Dotter ſkilgietem/

z Frillu Dottur Son skilgieten. Nu eru þau ei til / þa tekur Frillu Dottur Dotter skilgieten. En ef hun er ei til/ þa tekur Modur Fader z Fødur Moder skilþeingen. En ef hverke er þeirra til/þa tekr Modur Moder skilþeingen.

## Fiorda Erfd.

HVer hin Fiorda Erfd/er tekr Fødurbroder skilgieten (3) sambedra/ef Fader hans er skilgieten / og Brodurson skilgieten/af (4) sambedra Brodur komen og var han skilgieten / og Broder sammæddur skilgieten/ ef Moder hans er skilgieten / sin Þridiung hver þeirra ef aller eru til. Skal æ sa fyrre taka Arf er skilgieten Fodur er edur skilgietna Modur/ hvert sem helldur leider han til þess Arfs Fader edur Moder/ þa hin næst Jafnskylldur / þo ad Fader hans sie Frilluson edur Moder Frilludotter. En ef Fodurbroder er eirn/ en Brodur syner fleire/ þa skal han eirn taka jafnt vid þa. Nu er Brodurson eirn/ en Fodur-

urbrædur pleire/ þa skal hañ eirn taka jafnt vid þa alla. Sama Mal a Brod er sammæddur/og so skal hvervetna upp hiedañ / ad jafnmiked skal taka hver eirn i sijna Ættkvijsl / þo ad allmarger sie i adra Ættkvijslena til sijns Hlutar. Eñ ef eirn er þessara til sem nu voru talder/ þa tekur sa þñ Arf allañ. Nu er eingeñ þra til sem adur eru nefnder/ þa tekur Fødursyster skilgieteñ samfedra/ef Fader heñar er skilgieteñ/ z Brodurdotter skilgietenn af (5) Samfedra Brodur komeñ/ og var hñ skilgieteñ/ z Syster sammædd skilgieteñ / ef Moder heñar var skilgieteñ/ siñ þridiung hver þra med fyrra Skilorde. * Eñ hvervetna þar sem Odals Jørd er i Skipte/ þa skal þad Odal taka þad sem til er bored/ eñ hiñ Lausafe.

## Fimta Erfd.

SV er hin fimta Erfd/er tek: Modrbroder skilgieteñ(6)samfedra z Systurson skilgieteñ af (7) samfedra Syst: komeñ.

 komeñ.

komeñ. Eñ ef þeir eru ei til/ þa tekur Modursyster skilgieteñ Samfedra og Systurdotter skilgieteñ af Samfedra Systur komeñ.

# Siøtta Erfd.

SV er hin Siøtta Erfd/er Brædrasyner takast Arf epter skilgietner / ef Fedur þra eru skilgietner z (8) samfedra. Þa þeir þar næst/ þo ad Fedur þeirra sieu Frillusyner. Eñ ef þeir eru ei til/ þa taka Brædradætur skilgietnar med fyrra Skilorde. Nu eru þær ei til/ þa take Syskinasyner skilgietner. Nu eru þeir ei til / þa taka Syskinadætur skilgietnar. Nu eru þær ei til/þa taka Systrasyner skilgietner. Eñ ef þeir eru ei til / þa taka Systradætur skilgietnar af Samfedra Systrum komnar. Nu er eingeñ þessara til sem fyrr eru taldar/ þa tekur Frilluson eirn edur fleire ef til eru/ z ei i Nordome gietner edr Frændsemisspiöllum edur Sifiaspiollum nær meir eñ lofad er ad Logũ. R.B.N.K.

Eñ

Eñ ef einge er þessara til / þa tekur Moder Oskilgetens Arf epter Barn sitt/ þad sem hun gat i Frilluliþnade/ z ei i Nordome gieted edur Sifiaspiollū. Eñ ef hun er ei til/ þa tekr Frilludott-er so til komen sem seiger um̄ Frilluson.

## Siøunda Erfd.

SV er hin Siounda Erfd er tekur Fodurbroder skilgietenn sammøddur/ z Brodurson skilgietenn af sammøddum Brodur komenn. Nu eru þeir ei til/ þa tekur Fodursyster skilgieten sammødd z Broðurdotter skilgietenn af sammøddum Brodur komenn.

## Attunda Erfd.

SV er hin Attunda Erfd / er tekur Modurbroder skilgietenn sammøddr/ og Systurson skilgietenn af sammøddre Systur komenn. Nu eru þeir ei til/ þa tekur Modursyster skilgietenn sammødd og Systurdotter skilgietenn af sammødd-re Systur komenn/ Verdur hver annarar Arfe.

Arfe. Og so er hvervetna þar sem tveir edur fleire standa til eins Arfs / eþ einge er sa til er ædur er taldur.

## Nijunda Erfd.

SV er hin Nijunda Erfd/er Madur tekur Arf epter Brædrungsbarn sitt aþ samfeddum komner/ nema Manne skylldare piñest / þt i þessare Erfdeñe nemur hiñ Nanare. Þar næst teku jafnskylldur af Systkinū komeñ z take ꝛ fyrr i Karllegg eñ Kveñlegg. Eñ eþ þeir eru ei til / þa tekur Madur Arf epter Systrungsbarn sitt.

## Tijunda Erfd.

SV er hin Tijunda Erfd / er taka þr Meñ sm̄ eru epter Brædraborn skilgietner og komeñ af Samfeddum. Nu eru þeir ei til/þa take þeir sem epter eru Systkinaborn skilgietner. Eñ ef þeir eru ei til / þa take þeir Menn sem epter eru Systrasyner skilgietner. Þar næst þeir sem epter eru Systra Dætur skil-

skilgietner þridia Manne ad Frændseme/ og take æ fyrr jafnskylldur Kallmadur enn Kona.

## Elleffta Erfd.

SV er hin Elleffta Erfd / er takast Brædrasyner Arf epter skilgietner/ ef Fedur þeirra eru sammædder og skilgietner. Þa hiner næst þo ad Fedur þeirra sieu Frillu Syner. Enn ef þeir eru eige til / Þa taka Brædra Dætur skilgietnar med sama Skilorde. Nu eru þær ei til / þa taka Systkinasyner skilgietner. Þa Systkinadætr. Þa Systra-syner. Þar næst Systradætur skilgietnar af sammæddum Systrum komnar.

## Tolffta Erfd.

SV er hin tolffta Erfd/ er Madur tekur Arf epter Brædrungs Barn sitt af sammæddum (9) Fedrum komner/ nema Manne nanare sinnest/ hvIad hier nemur hinn nanare. (10) Þar næst tekr jafnskylldur af sammæddum Systkin-

um/ þa aþ Systrum komeñ. Þar næst tekur Madur Arþ epter Systrungs Barn sitt. Þa taka þeir Meñ sem ep-ter eru Brædraborn skilgietner aþ sam-mæddum komner. Þar næst þeir sem epter eru Sinkinaborn skilgietner þyrr i Karllegg eñ Kveñlegg. Þar næst þeir sem epter eru Systraborn Þrimeñingar ad Frændseme / take þyrr jaþnskylldur Kallmadur eñ Kona.

## Þrettanda Erþd.

SV er hin Þrettanda Erþd/er tekur Frilluboreñ Sonarson. Eñ eþ hñ er ei til / þa tekur Sonardotter Frilluboreñ. Nu er hun eige til / þa tekur Dottursson Frilluboreñ. Eñ þar næst Dotturdotter Frilluboreñ. Þa tekur Broder samþedre. Þa tekur Brodur sammædre. Þa Systur (11) samfedra. Þar næst Syster sammædd (12) Frilluboreñ. Nu er hun eige til/þa tek: Fødur broder z Brodurson fyrre samþedra eñ sammædra/þa hiner næst. Nu eru þr ei til /

til / þa tekur Fodursyster Frilluboreñ og Brodurdotter med sama Skilorde. Þar næst Modurbroder og Systurson. Þar næst Modursyster z Systurdotter. Eñ ef ei eru þær til / þa take Brædrungar. Þar næst Syskinaborn. Þa Systraborn/ fyrre Kallmadz eñ Kona. Eñ ef þessara misser allra / þa take þeir sīn ad fiorda Mañe eru ad Frændseme/ nema Nænare þiñest skilgietner. Eñ ef einge er til Fiormeñingur ad Frændseme edur nænare skilgietner/ þa take Frilluborner. Tekur Madur þa fyrst Arf epter Brædrungs Barn sitt/ nema Mañe skylldare þiñest. Þar næst jafnskyllt af Syskinum. Þa af Systrum. Skal sa æ fyrre Arf taka er af Samfæddum er. Þa hiñ næst Frilluboreñ. Þessu næst taka Þrimeñingar Frilluborner. Þar næst Mañe oskylldare. Þa Fiormeñingar Frilluborner fyrr eñ under Kong gange.

## Cap. XIIII.

## Ef Kyn Mañs er villt.

EF ſa Madur tekur Arf epter Mañ ſem Meñ hyggia riettañ Erfingia/ og profaſt Kyn añars tveggia Þra añad ſÿdar ſañara. Þa ſkal hañ greida Erfingia er Þad profaſt/ Fe Þad allt ſem hũ tok i Eignum edur Lauſafe/ utañ Landsſkyllder edur añañ Avoxt. Og ſo ſkal hvervetna Þar ſem adrer taka fyrr Arf eñ Erfinge riettur/ ꝛ Þeir Þottuſt eiga/ fyre Þvi ad Kyn hins var villt.

## Cap. XV.

### Vm̃ Ættleiding.

NV ma Madur bæta Rind Sonar ſÿns og leida hañ i Ætt ef hañ vill/ ef ſa jætar ſem Arfe er næſtur. R. B. N. K. Nu a hañ Sonu ſkilgietna til Arfs ſÿns/ Þa ma ſa hver jæta fyre ſig ſem hañ er xx. Vetra gamall edur elldre/

re/ eñ ecke fyre þa sem Dalner eru edur yngre eñ Tvïtuger. Ma og sa einge Madur jata Arfe undañ sier sem hañ er yngre eñ Tvïtugur. Eñ sa er Tvïtugur sem hñ heþur xx. Jolanætur hinar fyrstu. Tekur Ættleidingur þa slïkañ (13) Riett sem sa stod til er jatade Arþe. Nu skal sa sm Mañ ættleider/ z sa er jatar Arfe / og sa sem ættleiddur er/ ganga aller samt fyre Kyrkiudyr/og hallda aller a eirne Bok / þa skal sa Madur sem ættleider / so mæla : Eg ættleide þeñan Mañ N. til Fiar þess sm eg gieþur høñ til Giallds og til Giaþar / til Sess z til Sætis/ z til alls þss Riettar sm Ættleidingur a ad haþa epter Løgum. So skal Konu ættleida sem Karlmañ. Nu ma leida Broder Brodur i Ætt / og Fødurbroder Brodurson. So meigu z fleire Meñ Mañ i Ætt leida sm nu var talt. Og so ma Kona ættleida sm Karlmadur/ eþ sa jatar sm Arþe er næst; (14) eþ hñ er full-
lïda

tijda og løgrædande. Nu skal han þad Fe allt hafa sem han er tilleiddur epter Løgum/ a medan þeir lifa er ættleiddu hn/allt til þess er Arf ber under han/ Sijdan ber Arfur honum Vitne um Alldur og Æfe. Han er og skylldur ad færa fram alla þa Omaga sem Løgkomner eru ædur a þad Fe. Han er og skylldur ad lijsa Ættleiding sine / sin a hverium r. Vetrum til þess er hn tekur Arf. En hver sem ødruvijs er ættleiddur en nu er mællt/ þa er sem ogiort sie og skal ei halldast.

## Cap. XVI.

### Ef Madur vegur Man til Arfs.

EF Madur verdur fyre þeirre Villu/ad hn vegur Mann til Arfs/edur rædur Mane Banarræd framkomen/ þa hefur hn fyre veiged þeim Arfe/ enn Arfur sa fare sijdan ad riettu Erfdum sem sa være einge til er Man vegur til Arfs.

# Cap. XVII.

## Um Arfaskipte Braddaudra Maña.

EF Menn falla i Drustu og kiemst einge i burt/edur druckna aller/ edur iñe breña / eda verda fyre Skridum : Fare Arfur þeirra sem þeir hafe aller senn lated Lijf sitt / nema añad profest sijdar medur løglegum Vitnum.

# Cap. XVIII.

## Hversu fara skule Feskipte epter dauda Meñ Felitla.

PAd er nu þvi næst ad einge maa giefa Arf undañ ødrum / utañ þær Giafer sem sijdar skilur. Vielakaup skal ad Vettuge hafa. Einge skal ødrū Arfsvik giora. Nu er Madur daudur/ þa skal Arfe i Aundvege setiast / z giora Skulldarmøñum Stefnu (15) ad þeir

kome þar aller ad Siound/ og hafe hver sijna Skulld i burt sliika sem Vitne bera honum. Eñ ef ei er Fe so mi/ ked/ þa skulu aller þarfnast so sem Tala teñur til. Sa skal meira þarfnast er meira atte Fe ad honum. Eñ sa er ei kiemur ad Siound/ sæke sitt ad Løgum og med Vottum/ og stefne Erfinggia til Votta Søgu ef Fe er til. Eñ þeir sem fyrr Naudsynia saker koma ei ad Siound/ og er Fe ei meira eñ hiner hafa teked er fyrre komu / þa giallde þeir aptur er fyrre toku/ og misse aller sem Tala teñur til. Eñ Erfinge sie vidskildur ef hañ baud til ad Løgum.

## Cap. XIX.

### Hversu fara skal um̃ Omaga Eyre og Mala Konu.



Ú er þar Omaga Eyrer i Garde z Male Konu/ þa er vel ef þeim vinst badum Fe. Eñ ef þañ vinst eige badum Fe

Fe/ þa skal hun þarþnast Sagngialldsog Giafar. Enn eþ ei vinst Fe i alla Stade/ þa skal sa mest þarfnast er mest atte Fe ad hønum / So Kona hanns sem adrer Skulldunautar. Tolu skal haþa til þess / nema Madur atte Wed i einhverium Grip / þa a hann þann fyrst ad hafa. Helldur skal Kona þarþnast Tilgiaþar sinar/ enn þeir Menn sem þyrr attu Fe ad hønum/ enn hñ þieck heñar. Hviad einge skal sier Konu kaupa med añars Fe. Nu skal hun haþa Heimanfylgiu sijna/ enn Omage sitt Fe. Nu er ei Fe so miked / þa misse so hverkveggia sem Tala reñur til epter Fiarmagne. Einge a Skullder ad giallda epter þañ sem hañ tekur ecke Fe epter / hverke Sonur nie añar Madur. Nu eigu Hion Felag samañ og deyr añad tveggia þeirra / þa skal ad Helminge hvert þeirra Skulldum giegna. So skal z Omøgum þeim skipta er þau haþa med Arþfake edur med Fulgu teked a Fed. Enn

eþ þeir Omagar hafa komed a Fed sm̃ hñ var Arþtake epter eþ þeir ætte Fe epter/ þa skulu þeir Arfe þylgia æ med. añ sa Arþur viñst. Sijdañ hverþe þeir Omagar til þess/ sem þær a þyre Laga saker þram̃ ad fæta þa.

## Cap. XX.

### Hver vardveita skal Omaga og Fe hañs.

EF sa Madur andast er hañ a Born i Omegd / þa skal sa veita Vörd Bornum z Fe sm̃ Arþe er næstur / hvert sem helldur verdur Fiarhalldsmadur Karlmadur edur Kona. Hañ skal læta virda Fe þad allt vj. skynsama Meñ / og haþa Vitne til/ vid hveriu hañ tekur. Hañ skal þar øngvu (10) aþleoga ad ur virdt er/nema hiñ Daude haþe Bwætt / og þurþe i Bwed ad kaupa añad hvert Hey edur Mat / þad skal hveru tveggia kaupa eþ þarþ. Fiar Vardveitslu.

veitslumadur er ei skylldur ad taka vid Abyrgd a Bwnade þyrr eñ ad næstum Fardøgum epter / er hinn er andadur. Fiar Vardveitslumadur skal ei þæra Fe Omaga wr Fiordunge / nema hañ þæe þullañ Vørdslumañ þñ er þar eige Jarder (17) z Lausagodts / ad þar sie Fe gollded sem hñ tok / þa er Omage er Riettnæmur / utañ Fe sie i pleirñ Fiordungum / þa mœ Fiarhalldsmadur þangad þæra ad Osekiu sem mest er Fe / edur þangad sem Jarder eru. Nu eþ sijdañ ber Arþ edur Riettarþar under hiñ Vnga Mañ / edur kiemur Hvalur a Reka hñs / þa skal þad virda / og er Jñstæda þvi meire. Eñ eþ hñ setst i ovirdañ Omaga Eyre / þa skal hinn Vnge Madr hafa Fe sitt so miked sñ hñ fær Vitne til / og allañ Avøxt a Fe sijnu. Nu hefur hañ ei Vitne til / legge hiñ þram slijkt Fe sem hñ vill / z sverie fullañ Eid / ad þa heþur hinn Vnge Madur allt slijkt er hñ a / og ij. skilrijker Meñ med honum.

# Cap. XXI.

## Hversu miked Fe skal standa fyre Omaga.

M V virdest þar Fe so ad þar er Jñstæduenrer / full þiñ hundrud fyre Omaga hvern i Jordu/ edur þvi Fe er hañ ma Vøxtu edur Nytsemd af hafa/ vel er ef meira er/ þa skal hañ þad Fe taka. Skal þad Fe hverke vaxa nie þverra/ giallde slykt sem hann tok / nema Omage eige so miklar Jarder edur Lausagods/ ad Frændum hañs virdest hañ hardlega halldeñ af þiñ Formlagseyre sem fyrr skilur / þa skal ætla honum Klæda Verd/ og vel ad hallda hañ/og þeim fyre Starf sitt er Fiarhalld hñs hefur/so ad hañ sie vel halldeñ af/ og a þa Omage allañ Avoxt Fiar syns. Eñ Frændur hañs hygge ad a hveriñ tolf Mánudum hversu med Fe er farid/ og fae ødrum ef sa duger ei til med fullum Vordslum er ꝛdur helldur/ z ad sa

ſa legge fullar Bordſlur i móte er vid tekur. Eñ ſa a þullar Bordſlur er jafn miked Fe a ſkulldlauſt/ ſem Omag eñ a/ ſa er Fiarhalld þarf. R. B. E. K. Erfþingia (18) er rielt ad halldra Omaga Eyre eþ hñ vill/ þo ad hañ eyge miña Fe eñ Omageñ a / eþ ſkynſomſi Moñum virdeſt hñ ohætfur Skulldunautur. Nu eru Omagar ader a Fenu/ þa ſkulu þeir neyta Avarſtaña / nema þeir verde miñe / þa ſkal minkaſt Juñtædañ. Eñ eþ Fader edur Moder/ Brædur eda Syſtur koma a Fe hiñs Unga Mañs/ z eþ hñ er Arþtokumadur þra (19) / edur þeir hñs / eþ þau ætfu Fe epter / þa ſkal ætla honū Forlagseyre / þar til hñ er xvj. Vetra gamall / Eñ þau haþe ſier til Atviñu ſem þau þurþa/ þad ſem auk er. Eñ ei er Fiarhalldsmadur ſkylldur ad taka adra Omaga / eñ nu eru talder / a Fe hiñs Unga Mañs/ medañ hñ a Fiarhalld hñs.

# Cap. XXII.

## Vm̃ Omaga Eyre.

MB ef ei vinst Inſtæduegrer til þim̃ Hundrada/ þa ſkal Omage neita x. Aura a xij. Manudum hverium þar til hañ er xvj. Vetra gamall/ þa er hañ Matlaunamadur. Siđañ ſkal þ minka Iñſtædu ſem vid Leigu þarf ad leggia til þeirra x. Aura er þyre Omaga ſkal leggiaſt a hverium xij. Manuđ. Nu þo ad Omage eige ecke añad Fe eñ Iord/ þa/ er Tijuaurar takaſt aþ i Landſkyld/ þa ſkal þo ecke minkaſt Iñſtæda. Eñ ſu Virding ſkal ſtanda um̃ Iardarleigu ſem hid þirſta Aar var vird/ hvert ſem Leiga vex eda þverr. Fiarhalldsmadur ſkal eige ſelia odrum Fe ad hallda. Eñ eþ hañ ſelur odrum Manne Fiarhalld Omagans i Hendur / þa a hiñ Vnge Madur Heimtu Fiar ſijns ad hverium er hañ vill/ Fiarhalldsmañe ſijnũ/ edur hinum er aþ honum tok. Eñ eþ Mad-

ur

ut lætr Omagaeyre lausan/nema dæmdur sie wr Hende honū løglega/ þa skal han setia sitt Fe i Ved fyre. Nu ef Bonde er daudur/ en Kona hans lifer epter / og er ei Fe meira en hun a ad hafa/ þa skal hun veita Vord Børnum sijnum Felausum. En ef hun a onnur Børn/ þa hverfe þau til Fødurfranda sinna epter Løgum.

## Cap. XXIII.

### Hversu um̄ Arfa skal fara ef Erf, inge er ei nær.

HVervetna þar sem Madr andast/ og er Erfinge eige nær ad kalla til Arfs/ þa skal sa Arfur standa vitdtur i þess Heimile sem Arfur er ad/ þa er Madur er daen med fullum Vørdslum * z Avoxtum/þar til sem riettur Erfinge kiemur til/ edur sa er med Løgum a þess Arfs Vidtokumadur ad vera. Nu andast Utlendr Madur hier/af Noregs

Kongs Rijke/þa skal þañ Arf taka hi-
er til Burtsluttningar epter hann hinn
skylldaste Frænde hañs þeirra sem þa
eru hier. Eñ ef oskylldare Madur
tekur eñ Primeñingur/þa skal hñ fulk-
ar Bordslur i mote fæ/ad sa Arfur skal
ad Skilum bara. Nu er einge Fræn-
de til/þa skal taka Felage hñs Arf / sa
sem løgleg Vitne hefur til þess ad þeir
attu Felag samañ er hiñ doo. Nu er sa
ei til/ þa skal taka Styremadur. Eru
þeir fleire eñ eirn / þa skipte þeir ad
Jafnade sijn i millum. Skal allt þad
Fe virda sem eige taka Erfingiar vid /
hvert sem þad er Arfur edur Bijgsbæt-
ur/ edur añad Fe / og flytia so i Hend-
ur Eyganda / abyrgest ad øngvu / enn
vardveite sem sitt Fe. Sijdañ skal Erf-
inge umbuna honum fyre Starf sitt /
so ad hañ sie vel halldeñ af. Nu eru
þeir aungver til sem ædur eru talder/þa
skal Bonde sa sem hañ er a Vist med /
taka þad Fe virdt/og abyrgiast/og ha-
fa Voxtu af/þar til siñ Erfinge kiem-
ur

ur epter / edur hñs løglegur Vmbodsmadur. So skal og fara um̃ Arf Danskra Mañа z Svenskra/ ef þeir andast hier. Eñ af ødrum Tungum eñ Danskre / skal einge Madur ad Frændseme Arf taka hier/ nema Fader/Sonur edur Broder/nema þeir hafe løgleg Vm̃bod til. Eñ ef einge kiemur til iñañ x. Vetra/ * þa take Kongur þñ Arf allañ ad Riettu.

## Cap. XXIV.

Vm̃ Vm̃bod ad Løgum og Fe þeirra er Vtlands deya.

EF vor Lande vill fara af Lande i burt/ þa skal hñ fa Vm̃bodsmañ til allra Mæla fiña/ svara z sækia og so vardveita Fe sijnu þvi sem hañ a hier a Lande epter. Skal þad Vm̃bod halldast iij. Vetr eñ eige leingr/Og þo ad þeir hafe leingra Mældaga a giørvañ/ þa sie sialfteked Vm̃bod af / z take Erfinge vid /

vid. R. B. E. K. Endurnya mæ Vmbod ad lidnum tiј. Vetrum/ hvert sem hn er utan Lands edur innan. Nu andast hn þyrre/þa eigu Arfar hns vid ad taka/ er þr sanþrietta Andlaat hns. En ef Vmbodsmadur fortrygger Fraþall þess er af Lande for/þa haþe Arþe eins Vitne til þess er sveria vill ad hn hyggur pad satt vera. Nu eþ vor Lande andast utan Lands / hvar sem pad er/ pa skal sa Madur taka pad Fe er par er / sm skylldastur er þra Manna er Vtþerd eigu. Nu er einge Frænde til / pa skal taka Motunautur hns til Vthafnar sa er wt ætlar. En ef einge er sa til / pa take sa Madur er af þm Fiordunge er / med þullum Vordslum / ad sa Arþur skal ad Skilum fara / hn skal ongva Mutu til þess giefa/ z engovu af þvi Fe looga/nema þvi sem þarf til Vtferdar epter þvilijkan Man/ epter Sidvana / nema han haþe sialþur annad Raad þyre giort. Han skal laata vitda Fe pad vj. skynsama Men/ þria

Islendska

Islendska/ og prim Nwsfasta Norræna Meñ/ nema ei sieu Islendsker Meñ til/ þa virde Nwsfaster Meñ einer. Hñ skal lata þar Fe virda sem mest er saman / og bære ei wr þeim Garde ædur Fe er virdt. Med sama Nætte skal hñ lata virda þ Fe sm̃ añars stadar er. Skal allt virda til Gangs Silfurs / slijks sem þa gellur af Kongs Stedia. Nañ skal veria þvi Fe sem ovared var ædur / til þeirra Hluta sem hingad er vart / og geyma sem sijns Fiar / og aßyrgest ad ongvu/ og hafe fyre Starf sitt þa er hñ kiemur wt / so ad hñ sie vel hallden̄ af epter vj. Mañá Virdingu. Eñ ef einge er sa til sm̃ ædur er taldur/ þa skal Gardsbonde hñs taka þ Fe virdt / og abyrgiast sem sitt Fe / og hafa Gagn af / þar til sem Erfinge kiemur epter / edur hñs loglegur Vm̃bodsmadur / og giallde honum þa slijkt Fe sem hñ tok. Ef hverke kiemur til loglegur Vm̃bodsmadur nie Erfinge hiñs Dauda iñañ x. Vetra / þa

eignest

eignest Kongur þann Arf allan. Nu andast Madur a Saxlande/ edur sunnar a Einglande/ edur i Eyum vestur/ edur i Dyfleñe / þa er Madur ei skylldur ad læta virda þad Fe fyrr eñ i Norege. Nu er þar nænare Madur fyre/ þa skal sa taka vid Fenu/ og flytia til Erfingia/ eñ hiñ skal hafa Afla þañ sem a er ordeñ/ hvar sem hñ tok Fed.

## Cap. XXV.

Hverſu Arf skal sækia ad Løgum.

Arf skal sækia i þeim Fiordunge sem Arfur er dæeñ. Eñ ef Madur leider Votta i ødrum Fiordunge enn Arfur er dæeñ / þa hefur hañ þeim fyreskoted. Nu situr Madur i Arfe z leggur Dom fyre/ eñ añar kallast til komeñ ad Løgum/ þa skal sa stefna hinum Heimstefnu rietta/ og krefie hañ Arfs og Vtfarar er i situr. Nu vill hñ ei wr Arfe fara / þa skal hñ stefna honum Þing

fyre

fyre Rán z Jsetu: Og ef þa fullnast honum Vitne og Sögn oll til sijns Mals/og kiemur ecke Andvitne i mote/ þa eigu Þingmeñ honum Arf ad dæma/ eñ hiñ skal gallda Konge vj. Aura fyre þad hañ lagde Dom fyre Arf þañ er hañ ætte ecke i. Nu vill hñ eige wr Arfe fara/ þa skal hiñ æsta sier Þingmeñ Eids/ so ad hañ sie full Eida ad færa hañ wr Arfe sijnū. Sekur er hver Eyre vid Kong er honum fyniar Tilfarar. Nu koma þeir þar z ver hñ Arf Odde edur Eggiu/þa er hañ sekur x. Morkum vid Kong/ eñ hiñ hver sekur vj. Aurum vid Kong er Forsiodu veiter med honum. Nu beriast þeir/ þa er hver wtlægur sa er fyre stendur Arfe dæmdum/ eñ hiner aller Fridhelger er tilsækia.

## Cap. XXVI.

### Vm̄ Arfsokn.

Hver.

Hvervetna þar sem Madur kallar ei til Arfs fyre Fasfrædissaker/ z er þo til komenn/(20) þa hafe hann sokann Arf sinn innann r. Vetra/ fra sinn hann er innann Lands z wr Omegd/ef hann hefur Vit til/(21) nema skylld Naudsyn banne. Nu eigu Menn Arfe ad skipta/ þa er vel ef þeir koma aller til er Nlut eigu i ad skipta þeim Arfe. Nu koma sumer/ enn sumer vilia eige fara / þa skal giøra þeim Stefnu til ad skipta / og þo ad þeir kome þa ei til/ þa skal skipta fyre Vottum z Nlute aleggia/ þa skal hann þann Nlut hafa er þa hlytur hann. Nu kallar hann Misskipt/ edur seiger ad hinn hafe leynt Fe/ þa skal hann synia med Lyrittareide.

## Cap. XXVII.

### Hversu Madur skal rydia sig til Arfs.

Vo leikur a tveim Tungum / hvert Madur er arfgeingur edur eige: þa skal hann stefna þeim

þeim Þing er honum stendur fyre Arfe / þa skal hañ niota Votta siña ad hñ stefnde honum þangad / þad skulu og so Vottar hñs bera: Vier vorum þar i hia ad Moder hñs var Fest løglega i þeim Stad / z nefne Stadeñ. Þa eigu Þingmeñ honum Arf ad dæma. Hvervetna þar sem Madur vill sig til Arfs færa / leide Votta siña til / og stefne þeim ødrum til er þeim Arfe eru næster. Eñ ef hñ stefner honum eige til / þa er Vottum hñs fyrestoted. Þar skal uñ Arf dæma sem Arfur er dæmeñ / edur Jarder eru / edur Bw hiñs Dauda. R. B. N. K. Ef añad hvert Niona kañ fra ad falla / þeirra sem x. Vetur edur leingur hafa samañ vered / og hafa þau jafnañ hallded sig fyre løgleg Hion / þo ad Niuskapur þeirra hafe eige skilriiķelega vered lÿstur edu ærnmælgadur / og eige helldur Bygdarfleygt vered medañ þau lifdu bæde / ad hun være hñs Frilla edur Hoorkona / þa skal

Barn edur Born epterverande / i Arf setiast og halldast fyrre Skilgieten / þo ad ei liße Festar · Vottar. Einge Madur skal Fe skipta edur Arfe epter añañ / fyrr eñ þess er Leyfe til er modur a / nema Meñ siae ad med Spiollum fer. Eñ ef Madur hefur Vif til og er hñ Nestfær og Aulfær og ma hñ rada Bwe sijnu og Kaupum / þa skal hñ sialfur Fe sijnu rada / og ma þvi einge Madur skipta. Eñ þott nockur skipte / þa skal þad ecke halldast.

## Cap. XXVIII.

### Hveriar Giafer halldast meigu ad Logum.

MJ skal þær Giafer telia er halldast mega: Þær Giafer skulu halldast sem Kongur giefur oss / edur vier giefum honum. Giefa ma Madur og Vingiafer ad sier lifanda / Hest eda Uxn / Vopn eda þvilijka Gripe / so og Klæde/

Klæde/og aþſiþiar hñ ſier/ þo ſo ad vj-
ſkyn ſomum Moñum virdeſt eige Arþ-
ſvik giør vid Erþingia. Og ef ſo er
gieþed/ þa ma þa Giøþ einge Madur
riuþa. Eñ eþ hiñ heiter Launum fyre/
þa ma þad heimta. Hver Madur
ma gieþa Fiordungs Giøþ af Fe þvi
øllu ſem hønum hefur aþlaſt / ſo ad
meira er eñ hñ hefur ad Erfdum tek-
ed/ bæde i Lande z i lauſum Eyre/ hvert
ſem hñ vill Børnum ſijnum ſkilgietnum
edur ødrũ Moñum/einu ef hñ vill þad.
Enn Tijundar Giøþ af ſo miklu Fe /
ſem hñ heþur ad Erfdum teked bæde i
Lande z lauſum Eyre/þo ad hñ ſpyrie
ecke Erþingia ad / hvert ſem hann er
heill edur ſiukur/eþ hñ mæler aþ Vite.
Eñ af Fiordungs Giøf edur Tijundar
Giøþ ſkal þ fyrſt luka er Madur gief-
ur Gude þyre Sæl ſiñe/hverium Mañe
ſem hñ gieþur Løggiøþ ſijna fyrr.

# HIER HEFUR FRAMþærslu Balk/ Hverier Omaga eiga med Løgum fram ad þæra.

## Cap. I.

HVer Madur a fram ad fæ ra Fødur siñ z Modur / hvert sem hann er Skilgieteñ edur Frillu boreñ/ og so Børn sijn. Nu a hañ eige so Fe ad hñ meige añast þau/þa skal hañ þo tilleggia allt slijkt sem hañ þarþ ei til Matar sier og Klæda / Og sieu þau þærd med þessu Tillage þeim a Hendur er þa er næstur Arþe og Forlags Eyre a til. Eþ Madur a sier tveggia Missera Biorg og þeim er ꝼdur eru a Fenu/ þa skal hañ framþæra Syskin sijn/ eþ hñ a z þyre þau tveggia Missera Biorg er þa biodast a Fed / ef þau eru hañs Arþar edur hñ þeirra Arþe. Fra þessum Omøgum skal Madur ei seliast

seliast Arfsale / og aungvum þeim er
mdur eru komner a Fed / edur hañ er
Arftøku Madur epter / edur þeir hũs/
og sieu þeir þa Omagar. Eñ þo ad
hũ selieft / þa skal þad ei halldast / og
seigia Log þ Arfsal laust. Eñ þa er
tveggia Missera Biorg er halft þior-
da Hundrad er ætlad Karlmañe / enn
halft þridia Hundrad Konu / hverk
sem Madur er Ungur edur Gamall.
Þegar skal honũ fullañ Forlags Ey-
re ætla/ er hũ mœ ei viña sier fulla Fæ-
du/ þo ad hũ meige nockud til Gagns
viña þeim er hũ er med. Eñ ef O-
magar eru firnare/ þa skal sa framfæ-
ra er Arfe þeirra er næstur / ef hañ á
Forlags Eyre til. Nu þarf sa Mad-
ur Framfærslu er oskylldare er eñ fyrr
seiger/ edur Þrimeñingur z þar i mille/
þa skal ætla honum fiogra Missera
Biorg. Eñ ef Omage er oskylldare
eñ Þrimeñingur / þa skal ætla honum
vj. Missera Biorg. Eñ ef Omage er
Fiormeñingur/ þa skal ætla honũ viij.
 Missera

Missera Biorg / so miked a hverium xij. Manudum sem þyrr seiger / bæde þeim er þyrer eru a Fenu / og so þeim er þa kiemur a Fed. Skal allt til virda utan Busgøgn og Verkþære/ og einþølld Klæde bæde Dag z Nott. Nu er nockur þessara Arfe anars hvers siin i mille / þa skal ei meire Forlags- Eyrer þyre þeim standa ædur hann er skylldur þan þram ad þæra enn þiøgra Missera Biorg/ þar mine sem þyrr seiger. Nu minkar Forlags Eyre fyre Mane/ sydan Omage kiemur a Hendur hønu/ þa hverfe Omagar af Fe hns/epter riettre Tiltølu/þeir fyrst sem osfylldaster eru. R. B. E. K. Eige skal Omaga telia framar enn a þess Fe Niona sem Omagen er skylld- ur/ og hverþe af Fenu þegar hann er xvj. Betra/ ef hn er heill og verkþær.

## Cap. II.

Vm Niona Frambværslu siin a mille og um Prof.

Skyllt er hvert Hiona annad framm ad fæda a Fe sijnu / hvert Hiona sem þad er / ad Framfærslu parf/verdr: Odt/ edur fær añañ Krankleika. Eñ ef þau hafa med miña Fe samañ komed eñ þau ættu til þriggia Hundrada bæde samañ/ og alldrei urdu þau so rijk ad þau ætte Konge Skatt ad giallda / þa sie hvert añars Handbiargar Omage / edur flytiest med Hrosse ef þau fæ ei fyre uñest / og þeirra Børn skulu ei a Hreppa seigiast/ æ medañ þau fæ flutt med fyrra Skilorde. R. B. H. K. Þar skal Þrot heita sem Omageñ er/ þa er sa andast fra er med Handbiorg siñe atte Omagañ fram ad færa / edur fyrr søgdum Flutninge. Nu sæker Þrot Bonda i Hierade / þa skal skipta Omøgũ (1) fra epter þvi sem Felag þeirra var giort. Skal Moder færa Omaga sijna a Hendur Frændum sijnum þeim er Arfe eru næster / ef þeir eigu Fe edur Forlags Eyre til so mikeñ

sem fyrr skilur. Enn ef af geingur Forlags Eyre af þvi Fe/ þa skal hañ taka Omaga so marga sem hñ a Forlags Eyre til. Eñ þeir sem um̃fram̃ eru/ fare þeim a Nendur sem Arfe eru næster/ ef þeir eigu Forlags Eyrer til. Eñ ef sa a ei Forlags Eyre til/ þa skulu Omagar fara fram̃ i Ætt/ til þess er a Forlags Eyrer hitter. So skal og fara um̃ þa Omaga er fyrre talade um̃ / ad þeir skulu fara fram̃ i Ætt. Med sama Nætte skal z skipta þeim Omøgum er Fedrum fylgia. Nu fester Madur Omaga i Vist/ þa skal þad halldast. Eñ ef hañ vijsar hønum wr Vist/ z lætur hñ ganga a Fatæke Bæia i mille / þa skal hann gialld Konge vj. Aura / og vardveita þo Omaga sem mælt er. So skal og hver giallda/ sa Madur er ganga lætur siñ Omaga a Fatæke Bæia i mille/ sem nu var skilt. Eñ ei er Madur skylldur ad fæda edur Fulgu fyre ad iña / fyrr eñ hñ veit ad hñ er hñs Omage. So

skal

skal z Omøgum i Ætter skipta ef añad hvert Þiona er andad.

## Cap. III.

Hversu Meñ skulu skipta Felausũ Omøgum.

Ʀ skipta Meñ Felausum Omøgum sijn i mille / hvar sem þeir skipta / z hluta sijdañ / þa skal þ Skipte halldast þeirra i mille sijdañ / med hverium sem andast / þa skal þad þess Nyt. So þo ad meire Omagar verde eñ þa er skipt var / þa abyrgest sa þad er hlaut. Þeir skulu Aurþum fylgia eþ sa er Omage er Fe a.

## Cap. IV.

Hversu gamall Madur a Fiarhallð sitt.

EF Madur kiemur i Omaga skipte / þa er hñ er wr Omegd / og er hñ þa xx. Vetra gamall / z a ad taka vid Fe sijnu z

þa Fiarhalld sitt hverium er hañ vill/ eþ hañ kañ ei sialfur þyre ad sia/ og so oll oñur Forræde Fiar sijns. Eñ eþ Kallmadur kvongast yngre eñ tvijtugur/ þyre utañ Frænda siña Rad/hafe fyregiørt Landskylldum sijnum/ z ollum Aupexte Fiar sijns/vid Erþingia edr Fiarhallds Mañ. Nu kiemur sa Omage a Hendur Mañe er hñ a ei ad vardveita/ þa skal hñ þm heim stefna er vardveita a. So skulu Vottar hñs mæla: Hier er sa Omage er þu att þram ad færa / eñ ei sa er hingad þærde. Þa skal hñ þela honū a Hende Abyrgd þess Omaga. R. B. H. K. Eige skal þurþa ad løgbioda Omaga fleirum eñ einum/ utañ sa syne med Skilrijke i løglegañ Stefnu Dag / ad nockur stande jafnframt honum þeirra sem þullañ Forlagseyre eiga. Skal þad þa ecke dæmast þramar a hñ/ eñ epter riettre Tiløelu. Nu kiemur Omage a Hendur Mañe utañ Løgmañs Urskurd edur Þingmaña Dom/ giøre hvert er vill/

læte

læte þara aptur a Næl ella til Þings/ z mete Þingmeñ hvert þæra skal. Eñ ep a Næl færer/ flytie aptur ad sømum Nattstødum sem þangad for til hañs. Sekur er hver Eyre vid Kong er ei vill vid taka. Nu sa er eige vill vid taka/ bæte epter Lagadome fullar Bætur og so Þegn ep hiñ deyr ap Biargleysse. R. B. E. K. Ef Madur rangfær⸗ er Omaga/ gialldi þeim fullañ Kost⸗ nad er til var færdur/allañ slijkañ sem hañ hapde fyre. Nu eigu Meñ Omøg⸗ um ad skipta/ og vill añar skipta enn añar ei/ þa skal sa er skipta vill stefna hinum til Omagaskiptis/ z ef hñ kiem⸗ ur þar þa er vel. Eñ ef hñ kiemur ei/ þa leide hiñ Votta sijna ad hañ hepur hønũ þangad stepnt a þañ Dag. Sijd⸗ añ skipte vj. Skynsamer Meñ þeim Omøgum/og legge Hlute a/ z hape hũ siñ Hlut i burt/ eñ abyrge hinum sinn Hlut er ei kom til.

## Cap. V.

Vm̄ Omaga Fram̄þærslu / og ef hn̄ a Fe epter.

EF Madur þærer fram̄ þann Omaga er hañ er skylldur til þyre Laga saker / þo ad añar sie Erfinge/z bere sijdañ Arf edur Riettarfar under þañ Omaga/ed: med hverium Hatte honum aplast Fe / Og ef sa a Fe epter er fram̄ er þærdur þa er hn̄ andast/þa skal sa er Omagañ þærde fram̄ edur þess Erfinge/taka a. vaxtalaust slijkt sem hn̄ lagde fyre hn̄ / eñ Erfinge slijkt sem auk er. Nu veit. er Madur Mañe fyre Guds saker/þm̄ et hañ er fyre Laga saker ei skylldur fram̄ ad færa/þa skal Gud þad um̄bu. na honum/ eñ koma ei Fe fyre hverke vid hañ nie vid hañs Erfingia.

## Cap. VI.

Vm̄ Børn Vtlendskra Mañа hier a Lande,

EF sa Madur a Barn Omaga wt Frilluboreñ hier / er hañ er Norræñ edur Hialltlendskur / Orkneyskur edur Færeyskur / z hvadañ sem hñ er wr Noregs Kongs Rijke. Og ef Barn er fædt ædur hañ ser i burt / edur veiter hñ Vidgaungu ad hñ er Fader þess Barns / þo ad þad sie sijdar fædt / þa skal hñ leggia epter Peninga / so ad Barned hafe fulla Hialp sier til Foostturs næstu xij. Manude. Nu fædest Barn sijdañ hñ er i burtu / og hefur ædur ecke Raad fyre giort / þa skal rita i þañ Kaupstad / er sa Madur siglde af er þ Barn a / og skal Syslumadr / Raadsmadur edr Gialldkere i þeim Kaupstad / senda Peninga i mote þvi Barne / og so fyre þañ Kostnad er ædur hefur fyre þvi hafdur vered / af sialfs hñs Fe / og so i mote þvi Barne er ædur var fædt. R. B. H. K. Þad er stadfest i Løgum / ad aller þeir Faatæker Meñ sem mz Bonarvol ganga og þiggia Aulmusu / eru skyllder ad

bera edur leida Børn sijn / edur añann Veg ad flytia/epter þvi sem skynsamer Meñ sia ad þeir sa orkad / og so Fødur siñ og Moder/utañ Son edur Dotter viñe sier mdr tveggia Missera Biørg/ þa eru þau eige skylld ad ganga a Fatæke medur þeim Fødur edur Modur.

## Cap. VII.

### Vm Flutning Fatækra Maña.

SAtæka Meñ þa alla sem Frændur þeirra hafa ei Forlagseyre fyre þa ad leggia/og sialfer eiga ei Fe fyre sig ad leggia / og ei eru færer ad flytia sig/ þa er hver Bonde skylldur ad flytia þa og fæda/ epter þvi sem Hreppstiornarmeñ giøra Rad fyre. Einvirke er skylldur ad flytia sem fullur Bonde. So þarf Fatæker Madur Guds sem hiñ er meira æ. Og flytie epter Bodburd aller/hver wr sijnum Bæ / sa fyrstur er fremstur situr a Bodleid / og flytie til næsta Bæiar.

Sekur

Sekur er hver Eyre vid Kong ef hann
flytur ei so. Nu flytur hn̄ i Audn edr
þangad sem hiki Fatæke deyr af hn̄s
Fylgd / edur skynsomum Mon̄um virdꝫ
est af hn̄s Bollidum orded hafa / og so
ef hn̄ vijsar Fatækum Man̄e fra sier
og vill ei herbergia hn̄/og deyr hiñ Fa⸗
tæke af þvi. Sa er ad slijku verdur vit⸗
niskastur / sem Gud late ei verda/ þa
skal han̄ bæta þan̄ Man̄ fullum Bot⸗
um Erfingium hiñs Dauda/epter Do⸗
me skynsamra Man̄a epter Atvikum/ꝛ
so Konge þegn / og ackte þeir er dæma
Jn̄virdelega Dom sin̄ þar um̄/ ad slijk⸗
ar Ohæfur * meige ei ofmiog i Oven⸗
iu dragast. Nu vill hiñ ei vid taka er
fyre situr/ edur in̄ lata leida/þa nefne
sa Vitne til er flutte/ og abyrge hinum
sijdan̄ er vid skyllde taka/ þa er hn̄ vid
skildur. En̄ ef hinum Fatæka Man̄e
verdur sijdan̄ / an̄adhvert ad han̄ deyr
af Froste/ edur bijta Dijr edur Hundar
til Bana/ þa er þ þess Bonda Abyrgd
er hn̄ liet wte liggia. Eige skal Fatæ⸗
ka

ka Menn plytia sijdan Solu er sett. Sol skal um̃ Sumar rꜳda / en̄ Dagur um̃ Vetur. En̄ þeir sem sig plytia sialfer / hafe Nws heimil a Vetur þa er hꜳlfrockved er. Sekur er hver ij. Aurum vid Kong er syniar / nema hin̄ Fatꜳke deye wte/ þa sie under Lagadome / nema stalfur hafe i Fyrstu vijsad sijnum Omaga af Hende sier/ þa abyrgest hn̄ ef hn̄ hefur fullan̄ Forlagseyre fyre hn̄ ad leggia. Þad er z einkanlega boded/ ef fatꜳkur Madur verdur siukur og beidest Prestsfundar /. þa er Bonde skylldur ad fara epter Preste/ z flytia ei hin̄ Siuka wr Nwsum sijnum/ fyrr en̄ Prestur kiemur til hn̄s. Sekur er Bonde iij. Aurum vid Kong ef han̄ fer ei epter Preste/ nema Naudsyn bane. En̄ ef Prestur vill ei fara/ þa abyrge han̄ honum med Vitnum. Nu skal fatꜳka Men̄ herbergia um̃ Natur / enn reka ei wt sijdan̄ Solu er sett. En̄ ef nockur ryfur þessa Skipan um̃ fatꜳka Men̄/ þa er sa sijku sekur sem

sem ædur voktar/og gänge til Skripta/ og bæte vid Gud er hñ villde ei hialpa christnum Mañe.

## Cap. VIII.

### Um Arfsalskaup ad Løgum.

Einge Madur skal kaupa Arf Von ad ødrum / þviad optast verdur þad nockur Vielakaup. Eñ þo ad nockur kaupe / þa skal ei halldast / nema sialfur leyse siñ Arf til þess ad ættleida Frænda siñ/þvi ad þañ Arf a hver ad hafa sem Gud vill ad hñ verde Erfinge ad. Seliast ma Madur Arfsale ef hañ vill/ef einge er sa Omage er hñ a fram̃ ad færa / edur þær þeim ædur Stadfestu / medur þvi mote ad vj. skynsamer Meñ giøre þad Kaup med hønum og þeim er vid tekur / so ad þeim þiker ei Arfsvik giør vid Erfingia. Og so þo ad adrer giøre ei þad Kaup med þeim / ef Erfinge lofar/z sie hñ fulltyda Mad-

ur og Kaupum sijnum rædande. Enn sa er Arþsale vill seliast/ skal þyrst bioðast hinum nænustu Frændum sijnum við Vitne / við sier að taka / þeim sem fullar Vørðslur hefur / nema hann vilie gieþa i Klaustur/eda til Byskupsstola/ þa mæ hann giøra þad þo að hann biodest ei Frændum/ * og so þo að aðrer giøre ei Kaup / eþ Erþinge loþar / ef hann stadfester Omaga sijna adur.

## Cap. IX.

### Umm Loghreppa og Hreppstiornar Menn.

LOghreppar skulu vera sem að Fornu haþa vered. Eige þærre Bændur i Hrepp enn xx. Skal einge þeirra eyga minna Fe enn x. Hundrud. Riett er að skipta Hreppum smærra til Tijunda og Matgiafa eþ þeir vilia. Fimm Menn þa er best þikia tilfallner / skal nefna til að hafa Stiorn z Forsiæ þyre þvi er Hreppnum vardar /

vardar/ og ad skipta Tiundum øllum og Matgiøfum þeim er þaatæker Mess eiga/ og af heilagra Daga Veidum. Þeim Mønum skal fyrst Tiunder ætla er aungva eigu (2) Forlags Eyre edur Framfærslu Meñ/ og eru þo þar Nrepps Menn / Sijdañ þeim er þeim þiker mest Þørþ/ ef betur vinst. Enn þeir eru þar Nrepps Menn sem þar haþa uppþædst/ edur þar sem Erþinge hañs er Vistþastur Primeñingur edur nænare. Eñ ef þeir Omagar eru Framþærslulauser sem aungvañ eiga Primeñing edur nænare þañ sem Vistþastur er/ þeir eiga jafnheimilañ Flutning sem þyrr seiger i øllum Nreppum/ þar sem þeim þiker sier mest Nialparvon. Eþ Omage er færdur a Nendur Mañe edur settur nidur i Nrepp ad Ølogum / edur hvert annad Mæl er Madur þikest Þings vid þurþa / þa skal sa Þinge ræda er Þings þikest þurþa. Þa skal þad Bod hver bera eñ einge þella/z a þad ad fara med Vet-

vr Hwsum epter Bodburde rietkum/ eñ eige med Sætrum. Eñ sa er pellar/ sekur Eyre vid Kong. N. B. H. K. Ef fatæker Meñ skióta nidur Börnum sijnum (3) aploglega/ þa er riett Hreppstiora þm̃ sem næstur er/ & Bændum med honum/ ad taka þañ Mañ & binda ef þarf/ og fæta aptur/ & binda Barn a Bak honum/ & lægta hñ skal þañ bera burt ap Hreppnum. N. B. H. K. Þeir Meñ sem ei vilia hallda þad sem Hreppstiorar skipa löglega / gialldе halfa Mork/ halft Konge/ eñ halpt Hreppstiornar Moñum/ & leggest þad til fatækra Manna.

## Cap. X.

### Vm̃ Bodburd.

SA skal Bod bera Bæia i mille er higgia kañ fyre Orde og Eyde. Bonda skal Bod i Hendur pa ef hañ er heima/ eñ Hwsprenu hañs ep hñ er ei heima/

Syne hũs ef han er fulltijda Madur / Dottur hũs ef hun er vaxen / þar næst Brÿta edur hinum besta Mañe er i Bæ er staddur. Eñ ef Niw eru øll af Bæ geingeñ / þa skal ganga i Setuhws Bonda ef þad er oped / og setie nidur i Aundveige / (4) so ad ei falle / eñ ef hñ mæ ei iñkomast / þa skal Bod binda yfer midiar Dyr / so ad hver mege sia sem iñgeingur. Eñ sa Bonde a ad ganga til þeirra Maña er Bod bæru hõnum / og spyrie þa hvad Bod seiger / og bera sijdañ til næsta Graña a Bodleid. Nierads Meñ skulu reida Nættstade ad Bode. Þangad skal Bod bera fyrstañ Dag sem riett er / og ei seirna uppskiera eñ Bod mege vel Nættstad ná / og so añañ og hiñ þridia. N. B. N. K. Sa Madur sem Bod feller svare Sect fyre alla þa sem a þeirre Bodslod kom ei Bod til forfallalaust. Nu skal sa sem fyre situr vita hvern Tijma Dags Bod kiemur til hañs med Vitnum ef til eru. Eñ ef ei eru Vitne

til/ þa skal sa synia med Lyrittar Eyde er þangad bar. Nu kallast Madur bored hafa Bod til Granna sijns / enn hinn kvedur nei vid er fyre situr / þa skal sa er þangad bar / sanna med Lyrittar Eyde / ad hnn bar Bod ei seirna enn hnn atte ad Logum ad bera/þa skal sa gialld da Bodfall er fyre situr/Eyrer Konge. R. B. E. K. Ef Madur feller Bod þad / er stefnt er Þing ad heyra Kongs Bref / eda Manndraps Þing / edur Manntals Þing til Jafnadar a Bored/edr Hreppstiornar Þing a Haust/ sekur ij. Aurum vid Kong fyre hvert. Nu er fegar Bodfall/er ei sæker Bod Natt stade. Og þad annad ef ei verdur bored. Þad hid fridia ef Madur fær i Nend- ur Omaga edur yngre Manne enn * xv. Betra. Ef Madur flytur Hws sijn af fornum Toftum / og a þær Toftir sijnar / er honum hagar betur innann Gards / þa skal til þeirra Hwsa Bod bera og fastæka Menn flytia. Enn ef hnn fyrr setur nidur/ abyrgest sialfur ad

øllu. Einge skal Bod bera a Nønd ødrum sijdan Solu er sett um Sumar / en Deige um Vetur/ z so þætæka Men hid sama.

## Cap. XI.
### Um Eyde Jørd.

Hvervetna þar sem Madur slær edr sær Eyde Jørd sijna/ og eru Hws a þau sem Menn meiga i vera/ þa skal hn̄ hallda upp Bodburd øllum. Nu vill sa ei Bod bera edur þætæka Men flytia er Eyde Jørd a / þa flytie sa sem næstur byr Eyde Jordune/ þangad sem Menn eru fyre/ z hafe ad heimilu Lood halfa/ nema hin̄ kome ødru Kaupe vid. En ef fleire Men bwa a eirne Jordu / þa skulu þr skipta ad Jafnade sijn i mille epter Bænda Rade/ bæde Bodburd og Forumaña Færslu/ ept° þvi s̄ hver hefr af Jordu/ en̄ ei epter Fiarmagne. En a Nijlendum øllum inan̄ (5) Hrepps beida

þeide ſa Bændur Bodgreidſlu a Þinge er Jørd a/ edur Vmboosmadur hn̄s.

# Cap. XII.

Vm̄ Hreppſtiora Þing ꝛ Mañelde.

NV ſkulu Bændur aller til Þings fara þegar Bod kiemur til Nyſs / nema Einvirkiar einer/ þeir ſkulu fiogur Þing ſkyllder ad ſækia. Pad Þing ſm̄ Kongs Bref ſkal uppleſa. Og Mañdraps Þing. Og Mañtals Þing til Iaþnadar. Og þ Þing er Hreppſtiorn heyrer til. Eñ øll øñur Þing ſkulu Einvirkiar heima ſitia eþ þeir vilia. Sa er Einvirke er henum fylger yngre Madur til Verks eñ xvj. Vetra / hvert ſem hñ er Son hn̄s edur añars Mañs. Eckia ꝛ oþær Bonde ſkulu þviad eins til Þings fara eþ þau vilia. Eñ aller Bændur adrer ſkulu þara til Þings þegar Bod kiemur til Bæiar/ella gialle de Þingviſte epter Løgum/ Fyre Kon-

gs

ge. Nu ef Bod kiemur so sijdærla til Bonda / og er so laung Leid til Þings ad Bonde mæ ei til Þings koma ad midium Deige / og heþur hñ til þess log leg Vitne / þa mæ hñ heima sitia ad Ofekiu. Eñ eþ fleire Meñ verda fyre eirne Sok eñ eirn um̃ Þingvijte / þa ma Bod stefna þeim Þing er ædur eru æ lagder fyre Boktum. Riett er ad Bonde biode um̃ odrũ Mañe/ þa er Tijundarskiptis Fundur skal vera/ ad hañ man giegna sijku s Meñ verda þar æ sætter/ eþ honũ er ohent ad fara. Og skal hñ seigia a hverju morg Hundrud þangad er ad skipta Mañelde. Ef Meñ vilia læta vista edur fæda Fætæka Meñ / Og so fyre hverju marga Meñ þar skal Matgiof gieþa/ z hversu mikel þar er Tijund. Skyllt er Eckiu z oþærũ Bonda ad seigia Um̃bods-mañe sijnũ hversu mikel Tijund z Matgioþ þar er/ þa er Tijundaskiptis Fundr skal vera. R. B. H. K. So skulu Hreppstiornarmeñ skipta Mañelde ad þar verde

japnmikel Gisting peirra Maña er par eru Hreppsmeñ / Nott a hverium x. Hundrudū/par til ad er Hundrad Hundrada. Eñ sijdañ Nott a hverium xx. Hundrudum/par til sem eru ij. Hundrud Hundrada. Eñ po ad Fe sie meira/ pa eykst pad ecke til Mañeldis / nema Hreppstiornarmoñum synest añad sañara. Pa Meñ skal so ala er par eru Hrepps Meñ ꝫ aungvañ eyga Frænda pñ er Forlagseyre hape til ad pæra pa fram / so ad Meñ vite / ella pære til Frænda. R. B. H. K. Bwlauser Meñ ep Peninga eyga/ svare Mañelde og øllum Hrepps Naudsynium ad Jafnade epter pvi sem Hreppstiornarmeñ giøra Rad pyre.

## Cap. XIII.

### Vm̄ Ofid Klædaburdar hier i Lande.

Ad er øllum Moñum kuñugt um̄ pann mikla Ofid er Menn hapa hier meir i Oveniu dreig“ ed i pessu Lande eñ øngvu ødru

so Fatæku/ um̃ Skrwdklæda Bwnad/ So sem marger haba Raun ab med storum Fiarskulldum / og missa marger Meñ þar fyre marga adra þarblega Nute/ Eñ hiñ Fatæke þarbnast siñar Nialpar/ og fyre þad liggur margur til Dauds wte broseñ. Þvi giorum vier ollum Moñu kuñugt/ad hver sa Madur sem hañ a Tuttugu Hundrud Fiar z ei miña/ hvert sem hañ er kvongadur edur ei/ ma bera eina Treyu mz Kaprune ab Skrwde. Eñ sa sem a xl. Hundrada ma þar mz bera eirn Skrwd kyrtil. Sa sim a attatige Hundrada/ ma bera þar med Olpu edr Kapu tvi-bregna/byre utañ Græskiñ. Eñ sa sem a C. Hundrada/hñ ma ad Frialsu bera þsse Klæde oll. Larder Meñ meiga bera þau Klæde sim þr vilia / z þr Nandbeingner Meñ sem sier eygu Skylldar Vopn. So z þm Moñu sim utañ hafa fared / er lobad ad bera þau Klæde er þeir blytia sialber wt medañ þau viñast/ þo ad þeir eyge miña Fe eñ fyrr skilur.

Eñ

Eñ eige skulu þeir kaupa hier a Lande sier til Burdar þramar eñ þyrr seiger. Nu eþ nockur ber Skrwdklæde sa er miña Fe œ / edur ødruvijs tilkomeñ eñ hier vottar / þa er sa sekur ij. Aurum fyre hvert vid Kong / * og Klædenn upptæk Kongs Vmbodsmañe / utann honum sie gieþeñ / nema Konur bere.

# HJER HEFTR HJnn
Fimta Hlut Løgbokar / sem er Landabrigde.

## Cap. I.
Hverneñ Madur skal Brigda Jørd þa sm̃ Fiarhalldsmadur heþur sellt.

HVar sem Vngum Mañe tæmest Land i Erfd / edur ad Giøþ / edur i Vijgsbætur / edur Riettarfar / þeim er ei œ sialþur Vardveitslu Fiars syns / z selur Fiarhallds Madur hañs.

hañs i burtu/ þa a hñ Brigd til þess Lands/ hvert sem er eitt edur fleyre. Hañ skal brigdt hafa iñañ x. Vetra sijdañ hñ tok vid Fiar Vardveitslu siñe/ og er hañ iñañ Lands/ ella a hañ þess Maals alldrei Vppreist/ nema Nauðsyn bañe. Nu þo ad hñ eige fleire Lönd ad brigda/ þa skal hñ brigdt hafa øll iñañ x. Vetra/ sijdañ hñ er wr Ømegd. Og so ef hñ hefur Vtañlands vered/ þa skal hñ so brigdt hafa ef hñ kiemur wt Fulltijda. Ef Madur vill Jord brigda / þa skal hañ fara um̃ Hausted til Bæiar þess er sa byr a sem Jørd kallast eiga/ og seigia hønum vid Votta / ad hañ vill þa Jord brigda. Þetta skal hañ giort hafa fyre Jola nott/ hvar sem hañ fiñur hañ. Hañ skal stefna hønum til Jardar þeirrar er hañ vill brigda fimta Dag Viku/ þañ er iñ. Vikur eru af Sumre / og flitie þar Vitne sijn ad þetta er hañs Jørd/ z hñ selde ei nie gallt/ og ei gaf hñ/og einge sa er hñ baud um̃. Og ef hønum

honum fullnast þesse Vitne/ þa skulu Domendur dæma honum Jørd' sijna/ eñ hinum Aura sijna aþ þeim er honum selde. R. B. N. K. Ef Þors Dag þañ er ij. Vikur eru aþ Sumre ber a helgañ Dag/ þa kome øll Søgn fram um̃ Jardar Brigde hinn næsta virkann Dag epter. Nu heþur Jørd meir ad Solum þared / þa eige hver vid sin̄ Neimilldarmañ/ edur hñs Erfingia ef hñ er daudur/ og haþe þeir Fe epter hñ teked/ eñ vid Fiarvardveitslu Mañ/ eþ hñ er Vtañlands/ þar til er Fiarvardveitslu Madur hins Vnga Mañs var / nema hañ fae Vitne til þess ad hñ selde Jørd þa þyre Skullda saker þeirra sem ædur voru a Fenu/ og eige mætte hañ þær med ødru giallda/ edur til Biargar þeim Omøgum er a Fenu voru/ z ecke var añad til þyre þa ad leggia/ og hñ selde sem Dyrst mætte hñ/z fyrst selde hñ Leiguból/edur þ er Omageñ ætte i añara Maña Jørdū. Og eþ hañ þær þesse Vitne / stande

Jørd

Jord sem komen̄ er. En̄ ef hønum pallast þesse Vitne/ þa eygnest hin̄ Unge Madur Jordena jafngoda ad næstū Fardøgum. En̄ ef Hws eru betre enn þa er Jord var selld/ þa bæte hū þyre þad. En̄ eþ verre eru/ þa bæte sa hønum þad/er Hwsū hefur spillt. Nu kiemur sa ei til er stefnt var / þa skal Sækiande bera læta Steþnuvætte sijn/Sijd an̄ Eygnarvitne sijn/þa skulu Domendur dæma hønum Jord / en̄ hin̄ snwest a siti Sala epter slijkū Aurum sem hū gaþ þyre Jord. Nu pallast hønū þesse Brigd fyre einhveriar Naudsynia saker edur Vankun̄ende / og mete þad vijskynsamer Men̄/þa brigde þeirre Jordu sem nu var mællt/ þo ad sijdar sie.

## Cap. II.

### Um̄ Jardarsølu Attræds Man̄s.

Ege a Madur ad selia Land undan̄ Erþingium synū þa er hū er Attatijge Vetra gamall edur elldre / nema þyre pulla

